# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., ÁGÚST 1894. | 8.


## TRÚIN Á GUÐ.

EFTIR M. J. SAVAGE.

-:o:-

### IV. HEFIR GUÐ SJÁLFSVITUND? ER HANN PERSÓNULEGR? ER HANN GÓÐR?

Ég vona að þeir, sem fylgt hafa umræðum þessum séu nú orðnir sannfærðir um, að guð sé eilífr, ótakmarkaðr, almáttugr, og að vér með hinni einu rannsóknaraðferð, sem vér þekkjum —hinni vísindalegu—getum á skynsamlegan hátt skoðað og haft von um, að fá þekkingu á því, hvernig hann opinberar sig í alheiminum, í lífinu, í eðlisfari manna og sögu mannkynsins. En oss nægir ekki þetta; vér viljum fá að vita meira. Það, sem, að því, er mér virðist, mannshjartað hungrar og þyrstir eftir að vita, er eigi það, hvort vér eigum hér við almáttuga, ótakmarkaða, eilífa veru, heldr hitt, hvort vera þessi hafi sjálfstæða hugsun og tilfinningu. Er hún ótakmörkuð og almáttug en um leið heyrnarlaust, sjónlaust og tilfinningarlaust ferlíki, sem vér glímum við í dimmu næturinnar, eins og Jakob og stríðum og berjumst við alla hina löngu nótt, sem skeiðhlaup mannsins varir? Ef svo er, þá er ómögulegt annað, en að vér bíðum ósigr. Þó að oss finnist um stund, sem vér ætlum að sigra þessa öflugu, dauðu. blindu krafta, og getum látið þá þjóna oss, þá er það þó eigi svo, því að dag eftir dag, viku eftir viku, ár eftir ár, verða þessi öfl oss einlægt yfir-

sterkari. En vér verðum einlægt eldri og veikari fyrir. Hinir líkamlegu og andlegu kraftar vorir eyðast smátt og smátt og rýrna; og hversu mikið sem vér leggjum oss fram, þá varpar þó jötun þessi oss til jarðar að lokum; vér missum fótanna, og föllum í hið dimma,botnlausa hyldýpi, er vér köllum gröf. Ég segi, að það, sem vér viljum fá að vita er það, hvort oss sé ómögulegt að komast að annari niðrstöðu, en þessari,—því að hún verðr ofan á, ef að guð hefir enga sjálfsvitund, engan kærleika— eða hvort vér getum huggað oss við það, að til sé vera sú í alheiminum, er láti sér ant um oss, þó að vér alt fyrir það neyðumst til þess, af lítt skýranlegum ástæðum, að bera byrðar þær, sem leggjast með bjargþunga á herðar vorar og ætla að sundrmerja hjörtu vor—huggað oss við það, að til sé vera með tilfinningu, er veiti athygli stunum vorum og andvörpum, að til sé vera, er láti sér ant um oss, þegar hjörtu vor nötra af sárum sorgum, —vera, er sé fús að lyfta byrðinni, að sefa kvalirnar, ef ekki væru aðrar dýpri ástæður, er útheimta þögn og bið, þangað til sorgin hefir haft sín til ætluðu áhrif. Þetta er þá spurningin: „hugsar guð, lætr hann sér nokkuð ant um oss, elskar hann oss? eða erum vér að fást við öfl þau, sem eru oss máttugri, sem vér neyðumst til að hugsa oss sem hjartalaus, tilfinningarlaus, sem vér getum í angist hjartna vorra hrópað til, svo lengi sem vér viljum, en þau heyra þó ekki, af því, að þau vanta bæði heyrn og sjálfsvitund.

Þér munið það, að í ræðu minni hér á undan um „agnosticism“ fór ég nokkrum orðum um „anthropomorphism“, eða það,að vér neyddumst til að tala um guð og alt annað í heiminnm í orðatiltækjum, sem tekin eru af mannlegum hugsunum og mannlegri reynslu. Ég sagði, að ef vér segðum, að guð áformaði, þá meintum vér ekki það, að hann áformaði í sama skilningi og vér gjörum, að fyrir honum lægju örðugleikar, sem hann þyrfti að leita að ráðum til að yfirstíga. Ég sagði, að vér værum „anthropomorphic“ hvort heldr vér töluðum um guð, eða blómið, eða sandkornið, eða stjörnuna. Vér getum ekki gjört að því fremr, en takmörkun vorrar eigin náttúru. Ég hlýt því að tala í þessum líkingum í dag og bæði heimta það, sem rétt minn, og óumflýjanlega nauðsyn, en bið yðr um leið, að gefa gætur að því, sem ég hefi vakið athygli yðar á, að vér megum aldrei gleyma því, að mál vort er og hlýtr að vera líkingasfult. Það getr eigi náð hinum algilda, fullkomna sannleika, þegar vér tölum um hið ótakmarkaða, af því að mál

vort er svo takmarkað, orð vor steyft og mótuð eftir mannlegri reynslu og athugan. Takmörkuð orð geta því eigi verið fyllilega sönn, þegar vér tölum um þessi mikilfengu efni. Enn skuluð þér gæta þess, að þó að það sé ekki heimspekilega rétt af mér að segja, að guð hugsi, af því að hjá oss er hugsunin bundin við mannlegann heila, eðr að segja, að guð finni til, af því að tilfinningin hjá oss er bundin við taugakerfi,eðr að segja, að guð elski, af því að, elskan er mannleg tilhneyging eftir því, sem vér skiljum það orð—þó að það sé nú ekki vísindalega rétt af oss, að hafa þessi orð, þá eru þau þó hin bestu orða tiltæki, sem vér höfum, meira að segja hin einustu orðatiltæki, sem vér eigum völ á; og annaðhvort verðum vér að hafa þau, eða að þegja að öðrum kosti. Vér verðum að hafa það hugfast, að þegar vér segjum. að guð hugsi, finni til, elski, þá segjum vér ekki meira en er, heldr langt um minna. Vér höfum mannlegan skugga til þess, að skýra guðdómlegan veruleik, og vér vitum, að þessi veruleiki er langt um meiri en skugginn. Með þessa útskýringu legg ég þá kvíðalaus á stað, til að tala um veru þessa í orðatiltækjum mannlegrar hugsunar og mannlegrar tilfinningar og bið yðr, að taka tillit til orðatiltækja þessa, þegar þau koma fyrir.

Hin fyrsta spurningin er þá sú, hvort vér getum hugsað oss guð með sjálfsvitund. Sumum yðar kann að þykja það undarlegt, að koma fram með þá spurningu. En það er þó ein hin stærsta heimspekilega spurning þessara tíma, sem hinir mestu andans menn eru að reyna að leysa. Hartmann, pessimista—prinsinn, þessi mikli, þýski heimspekingr, ber fram þá kenningu, að heimr þessi sé hinn allravesti heimr, sem mögulegt hafi verið að hugsa sér, þessi Hartmann sannar það með vísindalegum staðhæfingum og sönnunum á langri og vandaðri röksemdarleiðslu, að guð sé vera, sem hafi hugsun og vilja. En ein af grundvallarsetningum hans er sú, að þessi hin mikla hugsandi, viljagædda vera hafi enga sjálfsvitund. Heimspeki hans er því kölluð: heimspeki hins vitundarlausa (philosophy of the Unconscious). Hann trúir því, að guð hugsi og vilji,—að hann hafi niðrskipað öllum alheiminum, en að hann hafi gjört það eins og í draumi, án þess að hafa nokkra vitund um, hvað hann var að gjöra. En það, sem ég vildi vekja athygli yðar á, og það, sem dróg mig til að minnast á hann, er það, að hann hefir vísindalega sýnt það og sannað, að í alheiminum opinberist vilji og skynsemdarfull hugsan. Og nú ætla ég að verja

nokkrum augnablikum til þess, að sýna, hvað þessi atriði snerta sjálfsvitund guðs.

Hvort er því þá svo varið, að í alheiminum sýni sig nokkur viljakraftr? Matthew Arnold kallar það: „stream of tendency" (straum hvata, eða framhaldandi stefnu) Frá hinu fyrsta upphafi, er vér getum fetað oss til aftr í tímann og alt til þessa dags, hefir alheimrinn fylgt ákveðinni og skynsamlegri stefnu, eins og hann væri í allri sinni framrás knúðr fram af vilja,er stæði á bak við alt saman. —En hvað meinum vér nú, er vér tölum um vilja hjá manni einum? Hvernig get ég til dæmis vitað, að einn eðr annar vilji gjöra eitthvað? Ef vér höfum ekki töluvert um það hugsað, þá erum vér, ef til vill, vanir við að ætla, að í oss sé einhver sjálfstæðr kraftr, sem kallast „vilji", eitthvað sem sitr á nokkurskonar hásæti, eitthvað, sem stýrir hreifingum handarinnar, eða fótarins, eða hugans. En ef að þér rólega viljið íhuga það litla stund, þá munið þér sjá, að meining vor er hvorki meiri né minni en það, að maðrinn vilji gjöra það, sem hann gjörir, vilji hugsa það, sem hann í sannleika hugsar, vilji framkvæma það, sem hann er að framkvæma. Það er með öðrum orðum: Viljinn er niðrstaða allra þeirra krafta, sem starfandi eru í manninum. Ef að vér stöndum á árbakka einum, þá sjáum vér, að áin rennr í einhverja vissa stefnu, norðr eða suðr. Í ánni eru hringiður, þverstraumar, öfugir straumar, á henni eru krókar og bugður, en þegar alt er samanlagt, þá rennr hún með öllum sínum krafti í vissa stefnu. Hið sama sjáum vér að á sér stað, hvað manninn snertir; hið sama getum vér séð, að á sér stað í eigin vitund vorri, er vér hugsum. Þar eru og hringiður, öfugstreymi, andstreymi, ein hvötin stríðir á móti annari en niðrstaðan á því öllu er sú, að vér viljum. En hvað meinum vér þá með því? Vér eigum við það, að niðrstaðan af þessum áhrifum kraftanna er sú, að vér hreifumst í vissa stefnu. Það er alt það, sem vér getum skilið við það orð á skynsamlegan hátt. —En lítið þér nú yfir alheiminn, lítið þér yfir sögu mannkynsins, lítið þér yfir alt það, sem vér þekkjum af þessum undarlega heimi, og allsstaðar getum vér séð, frá hinu fyrsta til hins síðasta, þenna straum hvatanna, þessa skynsamlegu hreifingu áleiðis. Og vér höfum öldungis hinn sama rétt til þess af þessu að staðhæfa tilveru viljans,eins og vér höfum til þess, að segja að viljinn sé í hjarta, eðr heila eins eðr annars af meðbræðrum vorum. Viljinn, eða það, sem svarar til viljans í mannin-

um, er þá hægt að sanna sem verulegan, sem eilíflega verandi kraft í alheiminum.

En er þá skynsemi til í alheiminum og gangi hlutanna? Hvað skiljum vér nú við skynsemi, þegar vér tölum um tilveru hennar hjá mönnum? Ég get ekki rannsakað hreifingar heila míns, svo ég viti hvað skynsemin, eðr vitið sé í raun og veru, í innsta eðli sínu, hvort að það er bundið við heilann eða ekki, og ef að ég get það ekki hvað sjálfan mig snertir, þá er ég miklu síðr fær um það, hvað aðra snertir. Hvað á ég við, þegar ég segi að herra A. eða herra B. sé skynsamr maðr? Ég á við það að orð hans og verk svara til þess,sem ég kalla hugsanfræðislega og skynsama niðrskipun eigin hugsanar minnar. Það er alt sem ég get skilið við það. En ef þau svara ekki til þessa, hvað segi ég þá um hann? Ég segi, að hann sé undarlegr, sérvit r, óskynsamr, má ske vitskertr eða hálfviti. En hvað liggr nú í þessum orðum? Einungis það, að orð hans og störf svara ekki til, eðr koma ekki heim við hina hugsanfræðislegu og skynsömu niðrskip un minnar eigin hugsunar. Alt það sem ég veit um mannlega skynsemi fyrir utan sjálfan mig er það,—og ég bið yðr að athuga það vel— að orð og verk annara manna koma heim við hina hugsanfræðislegu og skynsamlegu niðrskipan minna eigin hugsana. Ef vér nú rennum huga vorum yfir alheiminn, yfir hina liðnu sögu hans, og hið núverandi ástand, þá sjáum vér allsstaðar,að hann er bundinn hinum allra ströngustu reglum; vér sjáum hina óbreytanlegu efnablöndun í vatns-dropanum; vér sjáum hvernig blöðunum er raðað niðr á trjákvistinn einlægt eins í hinni sömu tegund, vér sjáum hve óbreytanlega,óskeikanlega pörtunum er niðrraðað í krystalli einum og þannig getum vér fetað oss alla leið upp til sólnanna og sólnakerfanna yfir höfðum vorum; allsstaðar sjáum vér hina ströngustu reglu, eðr niðrskipan, eilífa hátignarlega, og þessar reglubundnu hreifingar eðr niðrskipanir svara til hugsanfræðislegrar og skynsamlegrar niðrskipunar minnar eigin hugsanar, eftir því, sem ég er fær um að skilja þessar stórkostlegu hugmyndir, sem hér liggja fyrir sjónum mínum. Ef að ég því hefi rétt til þess, að segja, að maðrinn sé gæddr skynsemi, þá hefi ég óendanlegri fyllri og sterkari rétt til þess, að segja, að í alheiminum opinberi sig skynsemi, eða eitthvð, sem langt yfirstígr það,sem vér skiljum við það orð.

Það er þá sannað, að guð hafi vilja, að guð sé skyni gædd vera, og

ég hafi fullkominn, vísindalega sannaðan rétt til þess, að hafa þessi orð um guð í þeim skilningi, sem lagðr er í þau í orðbókum vorum, í þeim skilningi sem menn alment leggja í þau. En ef að í alheiminum og gangi hans lýsir sér skynsemi og vilji, hefi ég þá ekki rétt til þess, að segja, að þessi skynsemi og þessi vilji viti af sjálfum sér? Alt til þessa hefir enginn maðr þekt dæmi til þess, að vilji eða skynsemi sé aðgreind frá sjálfsvitund, (að skynsemi eðr vilji geti verið hjá meðvitundarlausum hlut eða líkama). Menn kunna nú að bera það fram, að menn gangi stundum án þess að vita af því, að menn vinni helfinginn af lífsstarfi sínu án þess að vita af því, og að þarna komi þó fram vit eðr skynsemi. Menn kunna að koma með það, að það sé áreiðanlega satt, að menn yrki ljóð í svefni eins og skáldið Coleridge og þau kann ske undrfögur, eins kunna menn að tína það til, að einn eðr annar gangi í svefni, reikni kannske erfið reikningsdæmi í svefni. Ég ber ekkert á móti þessu. En öll þessi verk spretta af vana. Menn hafa vitund um þau þótt óljós sé. Svo er um þá, er yrkja í svefni, eðr reikna út dæmi. En af því menn eru orðnir svo vanir að vinna þessi verk, þá er eins og menn viti ekki af því. Svo er um öll mannleg störf, sem vér þekkjum, um skynsemi og vilja, að þau eru unnin með fullri sjálfsvitund. Og ef vér ályktum; —sem vér höfum fullan rétt til— frá hinu þekta til hins óþekta, þá neyðir vor eigin skynsemi,svo langt sem þekking vor nær, oss til þess, að staðhæfa það, hvar,sem vér verðum varir við skynsemi, eðr vilja, að þessi vilji eðr skynsemi hljóti að vera samfara sjálfsvitund. Sökum tímaleysis ætla ég ekki að fara lengra út í það, en vona, að við nánari íhugun sjái menn, að hér sé það vísindalega sannað, að guð sé vera, er hafi vitund um sjálfan sig.

Nú kemr spurningin,hvort guð sé persónulegr? Og er þá fyrst að geta þess, að það, sem nú hefir þegar verið sagt getr að miklu leyti átt við þessa spurningu. En þó eru nokkur atriði hér við athugandi. Það er þá fyrst, að vér verðum að gjöra nokkuð, sem mundi gjöra marga spurninguna skýrari ef það væri gjört, en það er að útskýra til fulls orðatiltæki þau,sem vér notum. Hvað skiljum vér nú við persónuleika? Er það ekki það,sem menn vilja vita, þegar menn tala um persónuleika guðs, hvort hann hugsi, hvort hann elski, hvort hann láti sér ant um nokkuð? Að ætlan minni er það meining manna, eða er ekki svo?

Vér skulum nú athuga orðið „persónuleiki“ og sjá, hvað það þýðir. Það er þá fyrst, að guð er ekki persónulegr í þeim skilningi, sem vér höfum það orð í daglegu tali. Vér segjum: Þarna gengr þessi og þessi persóna (maðr) eftir götunni. Hvað eigum vér þá við? Hvað annað en það, að þar gengr vera ein, í vissri mynd og lögun, sem fyllir út ákveðið rúm, vera sem eftir sínum eigin persónuleika er undirorpin allskonar takmörkun, vera sem sýkist, sem þjáist, sem vonar, sem óttast, sem finnr til sársauka, vera sem á sínum tíma á fyrir höndum að deyja. Alt þetta felst í orðinu „persónuleiki“ eins og það er haft í daglegu lífi. Sannarlega getum vér ekki látið oss koma til hugar að heimfæra þetta upp á guð. Guð er ekki persóna í hinum vanalega skilningi þessa orðs.

Hvaðan kemr nú orðið persóna? Það er gamalt latneskt orð og þýddi upphaflega „gríma“ er leikarar höfðu. Á leikhúsum hinna gömlu Rómverja og Grikkja hafði leikarinn ætíð grímu, sem átti að sýna einkunn manns þess, er hann lék. Þessi gríma kallaðist *persona* og mátti, sem gefr að skilja, taka grímuna af, eðr setja hana á sig eftir vild. Svo var einkunn sú, eðlisfar, eðr lunderni, er leikarinn átti að sýna, kölluð „persona“. En þann skilning leggjum véı ekki nú í orðið, og ef vér ættum að halda þeim skilningi, þá gætum vér ekki hugsað oss guð í einni persónu, eðr þremr persónum, heldr í óteljandi persónum. Því að í hvert skifti, sem guð opinberar sig á einn veg eðr annan, annaðhvort á himnum uppi eðr á jörðu niðri, þá verðr þessi opinberun hans: persónuleiki, í hinni upprunalegu þýðingu þessa orðs.

En þó vér höfum ekki leyfi til þess, að segja, að guð sé persónulegr, eins og það er vanalega skilið þá —og ég vil biðja menn að gæta vel að því— höfum vér ekki leyfi til þess, er vér neitum persón uleika hans, að segja eðr hugsa oss, að hann sé minna en persónulegr. Setjum svo að ég loki hleranum fyrir glugga mínum, og láti að eins lítinn, hvítan ljósgeisla komast inn. Svo tek ég prism eitt til þess að kljúfa í sundr hinar margbreyttu geislategundir, rauðar, hvítar, gular, grænar etc.: en hefi ég nú rétt til að taka einn eðr annan af þeim litum, sem til samans mynda ljósgeislann og segja að hið bjarta hvíta dagsljós sé t. d.: rautt eða grænt o. s. frv.? Nei! En ég fer einnig með ósannindi, ef að ég neita því að ljósgeislinn hafi í sér fólgna þessa liti (hinn rauða græna etc.), er til samans mynda ljósið. Ljósið

er ekki minna, en rautt, það er meira, því að það hefir í sér fólgna alla liti ljóssins. Þegar ég þá sé, að persónuleikinn í mér eða í þér kemr í ljós á einn eðr annan hátt, (sem reiði, hatr) þá hefi ég ekki rétt til þess að segja: að hann komi ætíð fram á þenna hátt. Þegar ég því neita persónuleikanum, sem einkunn guðs, þá er ég ekki að gjöra minna úr guði, ég er ekki að taka neitt frá honum, ég er ekki að draga úr tign hans eða kærleika eða dýrð; ég segi að eins, að „persónuleiki“ sé lítið, veikt, takmarkað orð, og geti ekki náð út yfir hina ótakmörkuðu hæfileika guðs. Guð er ósegjanlega mikið meira en persóna, meira en það, sem vér skiljum við það orð, en þó felst í hugmyndinni guð alt það, esm er yndislegt og viðkvæmt og vonarfult og hjálpsamlegt.

En ég er ekki enn þá búinn með persónuleikann. Hvað er nú persónuleiki í innsta eðli sínu? Persónuleiki er ekki bundinn við takmörkun, ekki við vissa mynd, ekki við vissan stað. Klettrinn eða tréð hefir þessa og þessa lögun, það er bundið við einn eðr annan stað, og mér kemr aldrei til hugar að kalla það persónu. Því að það vantar aðaleinkenni þau, sem persónu fylgja. Það hefir enga sjálfsvitund, það vantar skynsemi og vilja. John Locke, enskr heimspekingr,segir, að aðaleinkenni persónuleikans sé hugsun og skynsemi. Hermann Lotze, einn hinn mesti heimspekingr segir hið sama. Að vita af sjálfum sér, segir hann, að sé hið innsta eðli persónuleikans. Fyrir því getum vér sagt, að guð sé persónulegr, þegar vér drögum frá þýðingu þessa orðs : alt það, sem takmarkar, sem bindr við vissan stað, sem fjötrar eða rýrir persónuleikann eins og vér skiljum hann í sjálfum oss og öðrum. Og ég hygg, að vér með fullum rétti getum kallað guð: „hina ótakmörkuðu persónu“. Og nú skal ég snúa mér að hinu þriðja atriði.

Er guð góðr? Ef hann er það ekki, þá er hann ekki guð. Þér getið sannað hvað sem þér viljið um guð, ef að vér getum ekki treyst honum, ef vér getum ekki lagt hönd vora í hönd hans, þó að hönd hans sé skýji vafin, ef að vér getum ekki gengið við hlið hans, eins og þegar barn gengr við hlið föðr síns í myrkri og trúað því, að hann viti hvað vér erum að fara, þó að vér vitum það ekki — ef að vér getum ekki trúað þessu, þá er sannarlega enginn guð til að því leyti er snertir daglegt líf vort, tilfinningar eða vonir. Góðr? Hvað skiljum vér við það orð? Það sem ég skil við það, og það sem ég hygg, að heimrinn

fari að skilja við það er þetta: Ef að guð er til, þá er hann konungr konunganna, blessaðr að eilífu. Hugmyndin að guð sé góðr þýðir það, að einhverntíma, einhversstaðar verðr hann valdr að blessun og vellíðan hverrar veru, sem hugsar og andar. En ég fylgi því fastlega fram, án þess að óttast nokkrar mótbárur, að þorrinn af hinum kristnu kirkjum hafa þá guðshugmynd, sem ekki getr átt við hinn *góða* guð. Mér er sama hversu fast þær standa á því, það er þó ekki, og hin guðfræðislega skýring þeirra á hugmyndinni guð, hefir ýmislegt það í sér fólgið, sem alveg mótmælir því og mun mótmæla því að eilífu. Ef að ein einasta mannleg sála á að líða eilífar kvalir, þá er guð ekki góðr. Ef að guð er góðr, þá hlýtr hvert eitt einasta af börnum hans að njóta góðs af honum.

En er nú guð þá góðr? Höfum vér nokkra ástæðu nokkurn skynsamlegan rétt til þess, að trúa því, að hann sé góðr í svo stórvægilegum og yfirgripsmiklum skilningi? Hvor er mótbáran? Ég vildi að ég gæti bent yðr á veg til þess „að réttlæta“ stjórnun guðs á mannkyninu. Því að það er mín heilög trú að það sé létt. Hver er nú mótbáran á móti gæðsku guðs? Þér getið látið djúpsæan speking, eins og John Stuart Mill, segja yðr það. Hann segir, að vér höfum rétt til þess að setja upp reikning yfir ilt og gott, og að setja hið illa í annan dálkinn, en hið góða í hinn, og þá getum vér máske sagt, að meira sé í heiminum af góðu, en illu; en af hvorutveggju sé þó nokkuð. Mill segir oss, að vér annaðhvort hljótum að takmarka gæðsku guðs, eða mátt hans. Hið illa segir hann, að sé til. Svo hlýtr annaðhvort að vera, að guð hirðir ekki um að losna við hið illa, eða þá, að honum er það ómögulegt. Þetta er hans sönnun. Ef guð hirðir ekki um að losna við hið illa, þá er gæðska hans takmörkuð, en ef hann getr það ekki, þá er máttr hans takmarkaðr. En í hvorutveggja tilfellinu er hann ekki hinn ótakmarkaði guð. En hvað er það nú, sem kemr mönnum til að efast um að guð sé góðr?

Það er þá það, að í mannlífinu kemr fyrir dauði, sjúkdómr, sársauki, fátækt, sorg og tár, alt hið illa, sem yfir holdið kemr. Þetta er sökin, sem hugsan og tilfinningar manna bera fram á móti gæðsku guðs. Annaðhvort af þvermóðsku, eða í angist hjartna sinna, með tárin í augunum segja menn: „Ég skyldi ekki láta þetta böl og mæðu koma fyrir mennina. Enginn faðir myndi breyta svo (illa) við barn sitt, sem guð breytir við mannkynið. Hann hlýtr að vera langt frá því, að vera

það, sem vér köllum kærleiksríkr eða góðr, að öðrum kosti myndi þetta böl ekki vera til.

En vér skulum nú skoða ráðgátu þessa svo vel og vandlega, og óttalaust, sem vér getum. Tökum þá fyrst dauðann. Er dauðinn illr? Það getr verið; en vitum vér að hann sé illr, svo að vér höfum þessvegna rétt til þess að segja, að guð skorti kærleika og speki og föðrást. En ég ætla að segja það, og býst ekki við neinni mótbáru, að vér höfum engan rétt til þess. Ég trúi því að dauðinn sé ekki illr, heldr góðr. Hann er almennr. Fyr eða seinna verðr hver og einn af oss að beygja sig og ganga í gegn um þessi hvelfdu, þröngu, dimmu göng inn í veröldina hinum megin. Dauðinn er algjört alheims-lögmál. Ef að dauðinn er illr, þá er guð líka djöfull, af því að hann hefir lagt þetta böl á herðar og hjarta hverrar skepnu, sem anda dregr. En ég stend fast á því, að enginn maðr viti, að dauðinn sé vondr. Menn hafa þráð það, menn hafa vonað það, menn hafa treyst því, menn hafa trúað því, um allar aldir, að hann sé góðr, óendanlega og ósegjanlega góðr. Og ef að það er satt, sem er eins og hvíslað innst í fylgsnum manns-hjartans' að dauðinn leiði oss til betra og sælla og æðra ástands, og að hann sé nauðsynlegt stig á fullkomnunarskeiði mannsins, þá er hann ekki fremr illr, en fæðingin, sem leiddi oss út úr myrkrunum inn í þessa undarlegu ljósbirtu lífsins. Og það er trú mín og sannfæring, að ef að dauðinn kæmi til vor flettr öllum sínum fylgifiskum þá mundum vér aldrei hugsa oss hann illan. Þegar vér tölum um dauðann, þá eigum vér eigi við hinn seinasta svefn, er vér sofnum út af til þess að vakna aftr til æðra og betra lífs. Það er ekki þetta, sem allr þorri manna á við, þegar talað er um beiskju dauðans. Heldr er það dauði fyrir tíma fram, kvalafullr dauði, skelfilegr dauði, angistar-dauði, örvæntingardauði, dauði með eðr af langvinnum kvölum, aðskilnaðr vina og þúsund önnur atriði, sem tengjast við þessa uppleysing líkamans. Ef að dauðinn kæmi til vor eins og hann á að koma, eftir langa æfi, er vér hefðum reynt og bragðað unað tilverunnar, og eins og börnin á kvöldin, værum orðnir þreyttir og vildum leggja oss fyrir og fara að sofa; ef að dauðinn kæmi til vor eins og þegar blöðin falla af trjánum, án þess að þeim blæði og án nokkurs sársauka, er hann sviftir þau skrúði sínu og þau falla þegjandi af eikinni í hinn mjúka beð jarðarinnar; ef að dauðinn kæmi til vor á líkan hátt, þá mundi oss aldrei koma til hugar að hann væri illr. Að deyja væri þá, að fara að sofa, þegar vér

værum þreyttir orðnir, að nema staðar þegar vér værum komnir á enda skeiðsins. Og ef hann kæmi til vor í þessum búningi, ef að mannkynið væri kallað burtu af jörðunni einlægt við og við til þess, að rýma til fyrir nýkomendum, er gætu titrað af gleði yfir lífinu, af að líta ljóma stjarnanna, er yrðu hrifnir af hörpuslætti vindarins í trjátoppunum, af draumi hafaldanna á ströndu sjáfarins, er finndu hinn sæta unað kærleikans í elskunni til föðr eða móður, til konu eða barna eða vina,er verðu viti sínu til þess að rannsaka hinar miklu, stórkostlegu, lífkröftugu ráðgátur lífsins,—ég hygg, að ef að það væri skoðað þannig, að kynslóð eftir kynslóð ætti að koma og setjast niðr að þessu ríkulega boði og sofna svo út af um leið og þeir sigldu á stað út á hið ókunna haf, er þeir voru saddir orðnir— þá mundum vér alls eigi kalla dauðan vondan, heldr mundum vér segja að hann væri fylling jarðneskrar sælu, að hann væri meðal til þess að úthluta sæluna mönnum í milljóna tali í stað þess, að veita hana aðeins þeim, er fyrst komu. Og ég trúi því, að þetta sé hinn rétti skilningr á dauðanum. Alt þetta, sem gjörir dauðann óttalegan, hinir skelfulegu draumar um ókomna tímann, sem ógnar oss, sársaukinn og sorgirnar og sjúkdómarnir og öll hin kveljandi atvik, sem fylgja þessu og framleiða það, —var það guð, sem gjörði þetta? Nei! Ekki eitt hið einasta af þessu. Þetta má alt forðast, þótt það oft fylgi með dauðanum, því það er ekki nauðsynlegt óhjákvæmilegt atriði dauðans. Þetta eru alt saman hlutir, sem vér sjálfir höfum ábyrgð á. Dauðinn, eins og guð gjörði hann og eins og hann mætir þeim, sem lifa lífinu í guði, er ekki skelfilegri, en þegar litla stúlkan mín sofnar út af í faðmi mínum á kvöldin, er ég rugga henni í rökkrinu. Dauði þess er í guði hefir lifað er að sofna út af í örmum guðs.

En nú skulum vér snúa oss að öðru atriði þessa máls, ég flokka það alt saman, kvalir, þjáning, sjúkdóm, fátækt, hungr, skort og glæpi, ég set það alt í þenna eina flokk, sem vér köllum ilt í heiminum. En hvað er nú þetta? Er þetta alt saman nauðsynlegt og óumflýjanlegt í alheiminum? Nei, ekkert af þessu. Þetta getr ekkert heimfærst undir hið nauðsynlega lögmál lífsins er guð gaf mönnum, þett er alt saman einungis afleiðing af vanþekking manna og því, að þeir rjúfa þessi lög guðs. Alheimrinn er allr eitt samræmi, hann er bæði fagr og góðr, smátt og stórt í honum, öll hans regla og niðrskipan. Hið illa er afleið

ing af vanþekkingu manna, ástríðum manna, ranglæti manna. Það er ekkert það ilt til á jörðu, sem þyrfti að vera.

En samt er gáta þessi eigi leyst enn, þó að vér getum sagt það skýrt og skýlaust. að heimrinn allr sé góðr, hvað manninn snertir. Það sem vér köllum mentun er það, að maðrinn læri að sjá og þekkja það sem hefir verið satt frá eilífu og nota það sér til gagns. Alt það, sem sem vér köllum sannleika, er uppgötvan mannsins á því, sem hefir verið frá upphafi. Maðrinn bætir engu nýju við það, sem áðr hefir verið. Alt það, sem vér köllum siðferðislegar framfarir heimsins, er eigi annað en það, að maðrinn finnr og hlýðir lögmáli sinnar eigin veru og lögmáli náttúrunnar, sem hvorttveggja er eilíft. Alt þetta segir oss og sannar oss,svo að enginn efi verðr eftir, að í sjálfu sér er alheimrinn góðr, sannr,gallalaus, verulegr, vinveittr og hjálplegr manninum. Í hverjum hluta heimsins, í stjörnunum uppi og í djúpinu undir fótum vorum er heimr þessi nægtabúr guðs, er bíðr þess að maðrinn taki af því og noti það. Maðrinn kallar á eldinguna, sem öldum saman hefir leikið sér í skýjunum og lætr hana hlaupa fyrir sig sendiferðir; hann hefir stjörnurnar sem leiðarvísir skipanna yfir hinn hyldjúpa sæ; hann bankar á jörðina og kallar út sólarljósið bundið á beði sínum í jörðu niðri, er það var grafið fyrir þúsundum ára og lætr það loga á arni sínum, lýsa upp næturmyrkrið í húsum sínum og á strætum úti. Hvert eitt fjall er dýrgripasafn, hver blettr merkurinnar eða engisins er auðugt nægtabúr. Maðrinn þarf eigi annað. en að biðja *með viti* um það, sem hann vantar, þá gefr guð honum í ríkulegum mæli af sínum ótæmandi auði.

En ég gat þess áðan, að spurningin væri eigi leyst enn. Það sem ef til vill er hjartaspurningin í því öllu er enn ótalað um. Látum nú alheiminn fyrir utan manninn vera allan góðan, látum manninum vera það mögulegt, að lifa hér lausum við alt böl og mæðu, alt, sem vér köllum ilt, en hví gjörði guð eigi manninn svo, að hann skyldi lifa réttilega, fyrst hann elskaði hann og vildi að hann yrði og væri sæll? Þetta er spurningin, sem er hjartað úr því öllu og alt málið stendr eða fellr með. Ef að guð er faðir kærleikans og spekinnar og vill, að maðrinn sé sæll, hversvegna skapaði hann eigi manninn svo að hann hlyti að verða sæll? Hví gaf hann honum eigi nóga speki til þess, að þekkja þegar í byrjununni hvað eina, sem hann hefir verið að uppgötva með erfiði og mæðu í fleiri aldir? Hví gaf hann honum eigi fullkomið vald

yfir náttúrunni, svo að hann gæti stjórnað henni, hlýtt lögum hennar? Hví gaf hann honum eigi þekkingu til þess, að skilja öll þessi lög,svo að hann gæti forðast fátækt og skort og sjúkdóm og kvalir og allskonar þjáningar? Vér skulum hugsa um það litla stund, og hugsa vandlega. Af spurningu þessari fæðist önnur spurning, en það er sú: hvort sé betra, að maðrinn hefði verið skapaðr sem vél ein, er hreifðist af sjálfu sér (automaton) eða sem vera, er með reynslunni ætti að feta sig fram á hærra og hærra stig í andlegu og líkamlegu tilliti. Menn geta búið til vél alveg eins og barn í lögun, og látið hana tala, látið hana ganga, og látið hana aldrei detta, meðan vélin er óskemd. Aftr hrasar barnið og meiðir sig í hvert skifti, meðan það er að læra að ganga. En er nú vél þessi betri, en barnið og fullkomnari, þó að hún geti ekki dottið eða meitt sig? Hinn mikli talnafræðingr Babbage gat smíðað reikningsvél eina, sem aldrei reiknaði nokkurt dæmi skakkt. Aftr var Newton, er mændi sem sjálfr vitsmunaguðinn yfir öllum mögulegum reikningsvélum, sem vísindamennirnir og verksnillingarnir gátu smíðað, en, þegar hann var ungr,þá rak hann í vörðurnar hvað eftir annað, er hann var að læra margföldunartöfluna, hina fyrstu undirstöðu í talnafræði þeirri, er hann seinna var svo leikinn í að nota við útreikninginn á hreifingum stjarnanna. Þér getið farið til Ítalíu og látið smíða þar handorgan svo fullkomið, að það er eigi hugsanlegt, að það spili falska eðr ranga nótu. En hinir mestu söngsnillingar Mozart og Beethoven fumuðu og gripu skakkar nótur, þegar þeir fyrst snertu á orgeli og urðu að þukla og feta sig fram í hljóðfæraslætti og nótnaspili. Vér getum búið til vél, sem með sólarljósinu dregr upp fullkomna ljósmynd af andlitum manna eðr landplássum. En listamálararnir Angelo, Titian, Rubens, hinir mestu í þeirri ment í heimi,voru árum saman að baxa við að draga upp myndir, og gjörðu margar þeirra miðr vel áðr en þeir gátu búið til listaverk þau, sem nú eru talin hin mestu í heimi.

Ég segi þá: þetta verðr spurningin um það, hvort betra hefði verið: að guð hefði skapað manninn sem viti gædda, sjálfvinnandi vél, er aldrei hefði gjört misgrip aldrei raskast, aldrei vitað af illu í fari sínu, aldrei hrasað svo hann þyrfti að rísa á fætr aftr, eða að hann hefði skapað hann eins og hann er, sem veru, er átti að læra af reynslunni, að taka framförum gegnum erfiði og þraut. Hvort er nú göfugra? En ef að maðrinn á að læra af reynslunni smátt og smátt, þá hlýtr honum

oft að skjátlast, hann hlýtr að reka í vörðurnar, hann hlýtr að reka sig á, hann hlýtr að brjóta hvort lögmálið á eftir öðru, svo að hann finni að eldrinn brennr, að frostið veldr kulda, að hungrið deyðir. Þannig lærir hann, að halda sér innan takmarka þessara undarlegu ósýnílegu laga lífsins, uns hann verðr sem tiginn borinn konungr, barnið guðs, en ekki vél ein. Og ef svo skyldi vera vinir mínir,—og enginn maðr getr með fullgildum ástæðum neitað því—ef svo skyldi vera, eins og vér dirfumst að vona og trúa, að þessi reynsla mannsins gjöri hann hæfilegan fyrir annað æðra og veglegra líf hinum megin, ef að hann ætti að vaxa frá, varpa af sér og troða undir fótum sér alla ófullkomnun og galla lífs síns eins og barnið hættir að hrasa eða gjöra misgrip, þegar það vex upp og verðr að manni; ég segi enn: ef að vér eigum smátt og smátt að rétta úr oss og blómgvast, uns vér náum hinum fullkomna, göfuga dýrðlega manndómi, verðum sannir—synir guðs og dætur—þá er líf vort réttlætt, hversu mikil þjáning og kvöl sem því kann að hafa verið samfara, og það er meira, það er alt orðið dýrðlegt; og það stendr þá ekki lengr sem sök á móti gæðsku guðs, því að það er miklu fremr hin stærsta opinberun hans kærleika.

Niðrstaðan verðr sú, að ég trúi því að vér getum skynsamlega sagt að guð hafi sjálfsvitund, að hann sé persónulegr, að hann sé góðr, um leið og ég get þess, að þessi hin líkingarfullu orð vor eru sem skugginn á móti hinum ótakmarkaða veruleik. Og þrátt fyrir efann og myrkrið og erfiðleikana í kringum oss, getum vér tekið undir með skáldinu Whittier og sagt:

Within the maddening maze of things,
And tossed by storm and flood.
To one fixed stake my spirit klings,
I know that God is good.

# Hyrningarsteinar trúar vorrar.

EFTIR E. A. HORTON.

I. Vér trúum því, að til sé ein æðsta vera, vor himneski faðir, sem oss er skyldugt, að elska, tilbiðja og hlýða.

II. Vér trúum því, að Jesús Kristr sýni oss veginn, sannleikann og lífið, er heimrinn á að byggja sér af ríki himnanna.

III. Vér trúum því, að maðrinn sé guðdómlegs uppruna, ófullkominn enn þá, en ódauðlegr að eðli sínu og hæfilegr, að taka óendanlegum framförum.

IV. Vér trúum því, að ritningin hafi inni að halda trúarlegan sannleika, sem geti bætt manninn, eflt guðsdýrkunina og huggað manninn og hrest í raunum lífsins, ef að menn réttilega kynna sér þessa bók og draga af henni réttar ályktanir.

V. Vér trúum því, að guð sá, er vér lifum, hrærumst og erum í, fylli upp alla tilveruna, að hann stýri og stjórni alheiminum.

VI. Vér trúum því, að mark vort og mið eigi, sem Krists, að vera það að grundvalla bróðrkærleikann manna á meðal, að samtengja mannkynið með böndum friðar og kærleika.

VII. Vér trúum því, að himnaríki sé ásigkomulag sálarinnar, og til þess að öðlast það, þurfum vér að iðrast hins illa, er vér gjörum, lifa hreinlega og leita fullkomnunar í öllum greinum.

---

Ritstjóri blaðs þessa hefir nú skift um bústað og er bústaðr hans nú 572 Alexander Ave., Winnipeg. Ég hefi verið kallaðr til að þjóna söfnuði unitara hér í Winnipeg, og með því, að oss Ný-Íslendingum, sem barist höfum fyrir frjálsri trú, þótti líkindi vera að málið fengi með því móti betri stuðning, þá kom oss öllum saman um, að ég skyldi taka því; ekki þó svo, að ég segði skilið við Ný-Íslendinga, því ég skoða mig enn prest þeirra sem áðr, er þessa stefnu hafa tekið, og ég vonast að sjá þá áðr langt líðr. En um leið og ég get þessa, get ég ekki látið hjálíða, að flytja þeim öllum þakklæti mitt fyrir góða viðkynningu og góða sambúð. Ég á svo margan góðan kunninga og vin enn þá í flokki „hinna rétttrúuðu“ þar, að ég hlýt einnig að senda þeim kærar þakkir fyrir bróðr-hug og bróðrlega vináttu. En sérstaklega sný ég mér þó að þeim, sem staðið hafa fastir fyrir og þolað með mér súrt og sætt,til þeirra, sem barist hafa fyrir sannri og frjálsri trú og ætla sér, að halda áfram baráttu þeirri framvegis. Ég vil

aðeins benda þeim á, að sannleikrinn ber laun sín með sér og frelsið lyftir oss upp yfir basl og vesaldóm. Fylgjumst að enn og höldum höndum saman, þá er sigrinn vor, eins og hann nú er þegar hálfunninn. Stöndum fast með sannfæringu vora.

Wpeg, 1. ágúst '94. RITSTJÓRINN.

—Þjóðveldishreifingar Norðr-álfunnar eiga allsstaðar að stríða við hatr og ofsóknir klerkavaldsins. Kennilýðr og kirkjur eru svarnir óvinir hreifinga þessara, og enn þá verri viðreignar, en konungar og aðall. Það var því eigi að furða þótt Garibaldi gamla væri illa við og að hann hataði klerkana, og eins er um flesta endrbótamenn borgaralegs félags nú á dögum, að þeim er ekki hlýtt til klerka. Menn sjá það svo glögt, að sé alþýðan undir áhrifum klerka, þá er hún óhæfileg til framfara og sjálfstjórnar. Klerka Norðr-álfu er örð gra að temja, en konunga og aðalsmenn, þeir eru harðir í horn að taka, en þó mun svo fara, að þeir temjast áðr lýkr, eftir því sem þjóðirnar ná meiri sjálfsvitund og sjálfsforræði. Krásir þær, sem klerkar nú setja að, (barátta sú sem þeir eiga í) er aðeins forboði þess er verða mun. Siðbótin steyfti klerkum af stóli og setti þá í bekk með öðrum borgurum, gjörði hún klerka að þjónum sóknarmanna sinna, er segja mátti upp eftir vild. Siðbótin leyfði klerkum að giftast, svo að þeir fengu konu og börn að annast, sem aðrir menn, enda fór það betr. Klerkar fengu þá annað að hugsa um, en að gjöra alþýðu að andlegum og líkamlegum þrælum. Að þessu leiti hefir siðbótin unnið mannkyninu ákaflega þarft verk. Hefðu klerkar verið einráðir, hefði engin framför orðið, ekkert þjóðlegt frelsi. Þó er enn mikið eftir ógjört bæði í löndum protestanta og kaþólskra. [Rel. Phil. Journal júlí 28. '94.]



„DAGSBRÚN" kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.
Árgangrinn kostar í Vestrheimi .......................... $1,00
Sendr til Íslands en borgaðr hér .......................... $0,75
Sendr til Íslands en borgaðr þar .......................... Kr. 2,00
—— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. ——
Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, 572 Alexander Ave., Winnipeg, Man. Canada.

Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.

Prentsmiðja G. M. THOMPSON.